# Gerningahríð

1. júlí '93

## MYNDBÖND OG GERNINGAR Í NÝLISTASAFNINU

GUNNAR J. ÁRNASON



Frá og með síðustu helgi og fram til 11. júl munkenna ýmissa grasa á sviði myndbandalistar (vídeó- eð skjálistar) og gerningalista í Nýlistasafninu. Alla daga milli fjögur og níu, verða sýnd myndbönd, um helgar verða gerningar og á fimmtudögum verða fyrirlestrar Meða gerningamanna eru eldri hetjur í bransanum, eins og Rúrí, Bjarni H. Þórarinsson, Magnús Pálsson, Halldór Ágeirsson og bræðurnir Lárusson, en einnig upprennandi gerendur. Fjöldamörg myndbönd verða til sýnis bæði eftir íslenska og erlenda höfunda. Í efsta salnum er dagskrádagsins varpað á vegg en í lestofunni hefur verið komið fyrir sófahorni þar sem hægt er að velja sér myndbönd og koða í góðu tómi á sjónvarpsskjá.

### GAMALT OG NÝTT Á SKJÁNUM

Ekki tókst mér að sjá nema hluta af myndbördunun, en nóg til að sjá að myndbandalist er í stöðugri þróun. Ýmislegt hefur gerst tækninni fleygir fram og hún verður aðgengilegri, menningir er í síauknum mæli gegnsýð af myndbandatækni, bæði í fjölmiðlum og til eigin nota, og þeir listamenn sem nýta sér tæknina eru ekki eins uppteknir af því og áður að stía sig af frá fjölmiðla- og afþreyingarkúltúrnum.

Myndbönd eru af töluvert slíku agi. Mörg bandarna eru hreinar heimildir um gerninga og eru allmörg slík á sýningunni. En einnig hafa myndbönd, skjáir og upptökuvélar verið notuð sem hluti af gerningi eða innsetningu. Sem dæmi má nefna innsetningu Steinu Vasulka á listasafninu nýverið og gerning hennar á sama stað, þar sem hún lék á myndbandsvélar sínar með fiðlu sem stjórntæki. Ásta Ólafsdóttir og Þór Elís Pálsson hafa notað myndbönd til að sviðsetja gerning, sem hefur gert þeim kleift að klippa saman myndefni og laga það að skjánum og hreyfingum tökuvélarinnar. Einn angi ef myndbandalist þróast í beinu framhaldi af tilraunum í kvikmyndagerð, þar sem gerðar eru tilraunir með formið sjálft. Enn má taka innsetningu Steinu sem dæmi um verk sem meðhöndlar þá tilfinningu fyrir framvindu og rými sem myndbandið skapar. Til samanburðar má nefna athyglisverð og vel útfærð verk eftir Finnbog Pétursson, „Óður" (1992), þar sem stutt myndskeið er sí endurtekin til að skapa nokkurs konar tónverk, og „Nature Morte" (1992) eftir Þorvarð Árnason, svart/hvítmynd þar sem hlutlæg skírskotun leysist hánast upp á skrímínum í mynstur og hreyfingu.

Vasulka-hjónin, Steina og Woody, eru meðal brautryðjenda í meðhöndlun tækninnar sjálfrar og hafa notfært sér hana til að aðgreina vídeólistina frá kvikmyndalist. Þau hafa ekki látið sér nægja að nota hina endanlegu mynd á skjánum sem efnivið, heldur hafa þau sundurgreint rafeindaboðin í frumparta sína og byggt á þeim grunni, jafnvel sérsmíðað tæki og rafeindarásir í þeim tilgangi. Steina hefur sérsakt dálæti á tæknilegum tilraunum og ágætt dæmi er „Voice Windows" (1986) þar sem Steina lætur spunasöng umbreyta og opna myndina á skjánum.

Þeir myndlistarmenn sem fyrst tóku vídeóið í sína þjónustu voru allir undir svokallaða konseptlist, enda virtist það tilvalin leið til að einbeita sér að hugmyndinni og útfærslu hennar og losna við þá kvöð að búa til varanlega hluti. Það er einmitt þessi hópur listamanna sem réð ferðinni mikið til og mótaði þá mynd og það orð sem myndbandalist fékk á sig. Hún mátti ekki eiga nokkuð sammerkt með kvikmynda- og sjónvarpsgerð. Skemmtun og spenna voru tabú og líklega trúðu sumir því að hið nýja listform gæti losað firrta áhorfendur undan hlekkjum „vitundariðnaðarins", annaðhvort með sjokkmeðferð eða langinnri terapíu. Myndbönd frá konseptskeiðinu reyndu verulega á þanþol þolinmæðis taiganna, en sem betur fer bar ekki eins mikið og áður á myndböndum sem eru álíka spennandi og að horfa á blauta málningu þorna.

Í staðinn fyrir að snúa alfarið baki við hefðbundnum formum afþreyingar og kvikmynda hafa vídeólistamenn í auknum mæli reynt að læra af og leita andsvara við sjónvarpsmenningu og myndbandavarningi. Anna Þorláks er dnilegur höfundur sem vinnur á gráu svæði á jaðri tónlistarmyndbanda. Þorvaldur Þorsteinsson skopstælir stofudrama íslenkra sjónvarpleikrita í myndinni „Og þá rís fiflið upp", sem sýnd var í sjónvarpinu í vetra. „Virtual Justice", eftir Muriel Magenta, er athyglisvert eikið myndband þar sem áhrif sjónvarps og skemmtiefnis á réttavitund okkar eru ekin fyrir.

Meistaraverkið á myndbandahátíðinni er „Art of Memory" (1987) eftir Woody Vasulka, sérdeilis stórfenglegt myndband sem heldur manni hugföngnum. Myndin er hugleiðing um fortíð, sögu og minni, þar sem fljúgandi furðuhlutir úr fortíðinni, samsettir úr gömlum fréttakvikmyndum, svífa yfir tímalausu landslagi. Woody hafði áður beitað inn á ný mið með vídeó óperu sinni „The Commission", sem segir frá fiðlusnillingnum Paganini og franska tónskáldinu Hector Berlioz, einkum því atviki þegar Paganini fa aðist eftir tónverki hjá Berlioz. Sá sem leikur Paganini í þessu myndbandi heitir Ernest Gusella, en hann á skemmtilegt og hugmyndaríkt myndband (60 mínútna langt), „Operation Wandering Soul" (1992), sem fjallar á frónskan hátt um líf og list ljóðskáldsins Ezra Pound og japanskt Noh-leiklús. Myndinni er skipt upp í stutta kafla þar sem Gisella leitar ólíkum myndformum og þegar á líður snýs hún upp í dans- og söngvamynd.



Halldór Ásgeirsson í gerningnum „Reykdraugur".

### GERNINGAR Á DAGSKRÁ

Lítil nýliðun hefur orðið í gerningahópnum undanfarin ár og sömu nöfn hafa haldið á loft merki gerninga hér á landi; Magnús Pálson, Bjarni H. Þórarinsson, Hannes Lárusson og Halldór Ásgeirsson. Að öðrum ólöstuðum hefur Magnús Pálsson verið stórtækastur og frjóastur á þessu sviði. Á sunnudagskvöldið flutti leiksmiðjan Kaþarsis nokkur hljóðverk, eða hljóðskúlptúra, eftir Magnús sem gefa ágæta hugmynd um tilraunir hans til að brjóta upp leikhúsið og hugsunarhátt myndlistamanns. En það er lítið hægt að fjalla um gerningana á hátíðinni að svo stöddu, því flestir verða þeir um næstu og þarnæstu helgi. Þá gefst yngri listamönnum tækifæri til að hrista ærlega upp í listforminu og það er kominn tími til.

Að lokum má minna á tvo athyglisverða fyrirlestra um samspil tölvu- og myndbandatækja. 1. júlí mun Hallgrímur Thorsteinsson tala um gagnvirka margmiðlun og 8. júlí heldur Hannes Högni fyrirlestur um sýndarrými (virtual reality, cyberspace).

901505 9730614